WIKIPEDIA

# Edinborgarkastali


Edinborgarkastali

**Edinborgarkastali** er virki sem stendur á Castle Rock í Edinborg í Skotlandi. Fornleifafræðingar hafa fundið merki um byggð á staðnum frá járnöld en óljóst er hvernig byggð það hefur verið. Konungleg höll hefur verið á tindinum frá ríkisárum Davíðs 1. á 12. öld, en hún entist til ársins 1633. Eftir 1500 dró úr mikilvægi Edinborgarkastala sem konunglegrar hallar en frá 17. öld var hann notaður sem hermannaskáli með stóru setuliði.

Mikilvægi Edinborgarkastalans í sögu Skotlands var fyrst viðurkennt af alvöru á 19. öld og síðan þá hefur mörgum viðhaldsverkefni verið hrundið í framkvæmd. Kastalinn var eitt mikilvægasta virki í konungdæminu Skotlandi. Kastalinn hefur gegnt hlutverki í mörgum stríðum í sögu Skotlands, meðal annars í skosku sjálfstæðisstríðunum á 14. öld og jakobítauppreisninni árið 1745. Kastalinn hefur verið tengdur við 26 einstök umsátur í gegnum tíðina.

Kastalinn er eitt helsta kennileiti Edinborgar og vinsæll ferðamannastaður.

 *Þessi grein er stubbur. Þú getur hjálpað til með því að bæta við greinina (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Edinborgarkastali&veaction=edit).*